skauti mínu ok firða þik bana eftir víg Glœðis, þá er þeir Þorgils ok Þorvaldr vildu drepa þik«. Þorkell mælti: »Liðit er nú þat. Gangi konur út ór búðinni ok vilju vér leita mannsins«. Brandr var falinn, ok komsk hann svá út ok hittisk hann eigi. Þorkell kvað hann farinn mundu til búðar Húnröðar. Hallfreðr mælti þá: »Grunr er mér nú á um liðveizluna ok býð ek nú Grísi hólmgöngu«. Gríss kvað hann þat boðit hafa fyrr, sem hann átti at beiða. Þá kvað Hallfreðr vísu:

(27) Þá mun reyndr at ráðnu
rógherðöndum verða
(minnumk) malma sennu
minn hugr (við Kolfinnu),
ef svá at örr á eyri
uppsátrs boði (at láta
vel hyggjum þat) viggjar
vísar mér at Grísi.

Gríss hafði í hendi sverðit þat, er Garðskonungr hafði gefit honum. Hallfreðr sá einn dag, hvar Kolfinna gekk. Hann kvað vísu:

(28) Þykki mér, es ek þekki
þunnísunga Gunni,
sem fleybrautir fljóti
fley meðal tveggja eyja,
en þá's sék á Ságu
saums í kvinna flaumi,

sem skrautbúin skríði
skeið með gyldum reiða.

Þat var um nóttina áðr en þeir skyldu berjask, at Hallfreðr svaf í sæng sinni; honum þótti Óláfr konungr koma at sér, ok þóttisk hann verða feginn ok þó hræddr. Konungr mælti: »Svefns er þér, en þó mun þér sem þú vakir; þú ætlask ógott ráð fyrir at berjask við Grís við ill málaefni, en hann hefir svá fyrir mælt ok beðit guð, at sá ykkarr skyldi sigr fá, er betri málaefni hefði. Haf ráð mitt, tak með þökkum at engi hólmganga verði ok bœt fé. En á morgin, er þú ert klæddr, gakk út á holt þat, er hjá þingstaðnum er, þar sem götur mœtask; menn muntu sjá ríða ok haf við þá tal, ok kann vera, at þér þykki þá annat meira vert en hólmganga Gríss, ok hirð eigi, þótt honum þykki sem þú hræðisk«. Hallfreðr vaknar ok íhugar, hvat fyrir hann hefir borit, ok segir þeim manni, er hjá honum var. Sá svarar: »Hræðisk þú nú grísinn, ok væri betra at hafa tekit fyrr gott ráð, þá er hann mælti vel til, en nú mun virt af óvinum þínum sem þú þorir eigi at berjask«. Hallfreðr mælti: »Virði þat hverr sem vill, hafa skal ek ráð Óláfs konungs; þau munu mér bezt gefask«. Um morgininn gekk hann út á holtit ok sá menn ríða í litklæðum at

sér. Hann spurði þá tíðinda, en þeir sögðu fall Óláfs konungs. Hallfreðr varð svá við, sem hann væri steini lostinn, ok gekk þegar heim til búðar með miklum harmi ok lagðisk þegar niðr í rúm sitt. Þá mæltu Gríss menn, at honum yrði lítilmannlega. Gríss svarar: »Þat er ekki á þá leið, minna sóma hafða ek af Garðskonungi, ok þóttu mér þau mest tíðindi, er ek mista höfðingja míns; er heit lánardrottins ást, ok er gott, er ek skal eigi berjask við konungsgiftuna; vil ek enn, at Þorkell dœmi sem ætlat var«. Þorkell mælti: »Ek mun nú taka máli fyrir Hallfreð ok sætta ykkr«. Þessu játti Hallfreðr. »Þat er gerð mín«, segir Þorkell, »at víg Einars komi fyrir víg Galta ok þar með heimsókn við Kolfinnu fyrir manna mun, en fyrir Gríssvísur skal Hallfreðr gefa Grísi grip einn góðan. Þá kvað Hallfreðr vísu:

(29) Auðs hefk illrar tíðar
alldrengila fengit,
mik hefr gjöllu golli
gramr ok jarl of framðan,
ef glapskuldir gjalda
gjalfrleygs ok hefk þeygi
mörk fyr minstan verka
matvísum skalk Grísi.

Þorkell bað hann hætta verkanum, — »ok

lát fram grip nökkurn, þótt eigi sé af konungsnautum«. Þá lét Hallfreðr fram hringinn Sigvaldanaut ok skildu at því.

**11.** Síðan fór Hallfreðr suðr um heiði ok fekk búit í hendr Valgerði systur sinni, en hann fór utan í Kolbeinsárósi ok kom við Orkneyjar; þaðan fór hann til Noregs ok kom á Sognsæ um vetrnátta skeið, ok spurði þá at um fall Óláfs konungs. Hann orti þá Óláfsdrápu ok er þetta stef í:

(30) Norðr eru öll of orðin
auð lönd at gram dauðan,
allr lemsk friðr af falli
flugstyggs sonar Tryggva.

Honum þótti svá mikit um fall Óláfs konungs, at hann undi engu ok ætlaði suðr til Danmerkr eða austr til Svíþjóðar. Þeir lögðu í einn leynivág. Þat spurði Hallfreðr, at Eiríkr jarl var þaðan eigi langt á brott á land upp. Þat gerði hann sér í hug, at drepa jarl, þótt þegar væri hann drepinn. Ok um nóttina dreymdi hann, at Óláfr konungr kœmi at honum ok mælti: »Þetta er ónýtt ráð, er þú ætlask fyrir; yrk heldr drápu um jarl«. Um morgininn eftir gekk Hallfreðr á bœ þann, er jarl var ok at stofu þeiri, er jarl drakk inni. Hallfreðr var kendr; hann var tekinn ok fœrðr

jarli. Jarl vildi láta drepa hann fyrir þat, er hann meiddi Þorleif spaka, ok bað fjötra hann; en er fjötrinn var borinn at honum, þá þreif hann til ok hnykti af þeim, er á hann skyldi leggja ok laust í höfuðit, svá at sá hafði þegar bana. Jarl bað þegar drepa hann, at hann gerði eigi fleira illt. Gamall maðr reis upp utar á bekkinn ok gekk fyrir jarl ok bað hann gefa Hallfreði líf, ok var þat Þorleifr enn spaki. Þá mælti jarl: »Þat er ómaklegast, at þú biðir honum griða, eða mantu eigi, at hann meiddi þik«. Þorleifr svarar: »Þat vil ek, herra, at Hallfreðr hafi grið«. Jarl kvað svá vera skyldu, sem hann vildi. Þorleifr tók Hallfreð í sveit sína. Hann mælti við Hallfreð: »Viltu at ek dœma með jarli ok þér?« Hallfreðr kvaðsk þat gjarna vilja. »Þá skaltu yrkja kvæði um jarl ok haf gert innan þriggja nátta«. Ok er þrjár nætr váru liðnar, þá fœrði Hallfreðr kvæðit ok er þetta upphaf á:

(31) Bærr est hróðr at heyra
hjaldrörr um þik görvan.

Jarl launaði honum vel kvæðit, — »en ekki vil ek þik með mér hafa sakir Óláfs Tryggvasonar«. Þorleifr bauð Hallfreði til sín ok þangat fór hann. Þorleifr reyndisk honum enn bezti drengr. Ok at sumri fór Hallfreðr út til Íslands ok kom skipi sínu í Leiruvág fyrir sunn-

an land. Þá bjó Önundr at Mosfell. Hallfreðr átti at gjalda hálfa mörk silfrs húskarli Önundar ok svaraði heldr harðlega. Kom húskarlinn heim ok sagði sín vandræði. Hrafn kvað slíks ván, at hann mundi lægra hlut bera í þeira skiftum. Ok um morgininn eftir reið Hrafn til skips ok ætlaði at höggva strengina ok stöðva brottferð þeira Hallfreðar. Síðan áttu menn hlut í at sætta þá ok var goldit hálfu meira en húskarl átti; skildu at því. Annat sumar eftir áttu þeir Hallfreðr ok Gunnlaugr ormstunga ferð saman ok kómu á Melrakkasléttu, en þá hafði Hrafn fengit Helgu. Hallfreðr sagði Gunnlaugi, hversu vel honum hafði vegnat ok Hrafni. Hallfreðr var lengstum í ferðum ok undi sér engu eftir fall Óláfs konungs. Hann fór til Svíþjóðar at vitja Auðgísls sonar síns ok fjár síns; hann ætlaði þar at festask. Þá var Hallfreðr nær fertugum manni, er hann ætlaði til Íslands at sœkja fé sitt. Hallfreðr son hans var þá með honum. Þeir höfðu útivist harða. Hallfreðr jós at sínum hlut ok var þó sjúkr mjök. Ok einn dag, er hann gekk frá austri, settisk hann niðr á ásinn, ok í því laust áfall hann niðr í skipit ok ásinn ofan á hann. Þá mælti Þorvaldr: »Er þér, bróðir, erfitt við orðit?« Hallfreðr kvað vísu:

(32) Hnauð við hjarta síðu
hreggblásin, mér ási,
mjök hefr uðr at öðru
aflat báru skafli,
marr skotar mínum knerri,
mjök emk vátr, af nökkvi,
munat úrþvegin eira
alda sínu skaldi.

Þeir þóttusk sjá sótt á honum ok leiddu hann aftr eftir skipinu ok bjuggu um hann ok spurðu, hversu honum segði hugr um sik. Hann kvað vísu:

(33) Rindr mun hvítri hendi
hördúks of brá mjúka,
fljóð gat fremðarœði,
fjölerrin sér þerra,
ef dauðan mik meiðar
morðveggs skulu leggja
(áðr vask ungu fljóði)
út of borð (at sútum).

Þá sá þeir konu ganga eftir skipinu; hon var mikil ok í brynju; hon gekk á bylgjum sem á landi. Hallfreðr leit til ok sá, at þar var fylgjukona hans. Hallfreðr mælti: »Í sundr segi ek öllu við þik«. Hon mælti: »Viltu, Þorvaldr, taka við mér?« Hann kvaðsk eigi vilja. Þá mælti Hallfreðr ungi: »Ek vil taka við þér«. Síðan hvarf hon. Þá mælti Hallfreðr: »Þér, son minn, vil ek gefa sverðit Konungsnaut, en

aðra gripi skal leggja í kistu hjá mér, ef ek öndumk hér á skipinu«. Þá kvað hann vísu þessa:

(34) Ek munda nú andask,
ungr vask harðr í tungu,
senn, ef sálu minni,
sorglaust, vissak borgit;
veitk, at vætki of sýtumk,
valdi goð hvar aldri,
(dauðr verðr hverr) nema hræðumk
helvíti, skal slíta.

Litlu síðarr andaðisk hann, ok var í kistu lagðr ok gripir hans með honum, skikkja, hjálmr ok hringr, ok skotit síðan fyrir borð öllu saman. Kistan kom í eyna helgu í Suðreyjum ok fundu sveinar ábóta. Þeir brutu upp kistuna ok stálu féinu ok söktu líkinu í fen mikit. Ábóta dreymdi þegar um náttina, at Óláfr konungr kœmi at honum; hann var reiðulegr ok kvað hann illa sveina eiga, — »hafa þeir brotit skip skálds míns ok stolit fé hans, en bundit stein við háls honum; nú haf þú sannar sögur af þeim, ella munu yðr henda hver undr«. Síðan váru sveinar teknir ok gengu þeir við ok var þeim gefit frelsi. Lík Hallfreðar var flutt til kirkju ok var grafit virðulega; kalekr var gerr af hringinum, en altarisklæði af skikkjunni, en kertastikur ór hjálminum.

4

Þeir Þorvaldr tóku land ok fóru á Óttarsstaði ok váru þar um vetrinn. Þorvaldr fór utan um sumarit, en Hallfreðr gerði bú á Óttarsstöðum; hann var kallaðr vandræðaskáld. Hann var mikilmenni ok gæfumaðr; er mart manna frá honum komit. Lýkr þar at segja frá Hallfreði.

---

## VIÐAUKI.

(Úr Heimskringlu, Óláfs sögu Tryggvasonar).

**90.** Óláfr konungr gekk einn dag úti á stræti, en menn nökkurir gengu í móti honum, ok sá, er fyrstr gekk, fagnaði konungi. Konungr spurði þann mann at nafni, sá nefndisk Hallfreðr. Þá mælti konungr: »Ertu skáldit?« Hann sagði: »Kann ek yrkja«. Þá mælti konungr: »Þú munt vilja taka kristni ok gerask síðan minn maðr«. Hann segir: »Kostr skal á því vera, at ek man skírask láta, ef þú, konungr, veitir mér sjálfr guðsifjar, af engum manni öðrum vil ek þat þiggja«. Konungr svarar: »Ek vil þat gera«. Var þá Hallfreðr skírðr, ok hélt konungr honum undir skírn. Síðan spurði konungr Hallfreð: »Viltu nú gerask minn maðr?« Hallfreðr sagði: »Ek var fyrr

hirðmaðr Hákonar jarls; nú vil ek eigi gerask þér handgenginn ok engum öðrum höfðingjum, nema þú heitir mér því, at mik hendi enga þá hluti, er þú rekir mik frá þér«. »Svá at einu er mér sagt«, segir konungr, »at þú er eigi svá vitr eða spakr, at mér er örvænt, at þú gerir þá hluti, er ek vil fyrir engan mun við sœma«. »Dreptu mik þá«, segir Hallfreðr. Konungr mælti: »Þú ert vandræðaskáld, en minn maðr skaltu nú vera«. Hallfreðr svarar: »Hvat gefr þú, konungr, mér at nafnfesti, ef ek skal heita vandræðaskáld?« Konungr gaf honum sverð ok fylgdi engi umgerð. Konungr mælti: »Yrk nú vísu um sverðit, ok lát sverð vera í hverju vísuorði«. Hallfreðr kvað:

Eitt es sverð þats sverða.

Þá fekk konungr honum umgerð ok mælti: »Eigi er sverð í hverju vísuorði«. Hallfreðr svarar: »Tvau eru ok í einu«. »Svá er þat«, segir konungr. — Af Hallfreðar kvæðum tökum vér helzt vísindi ok sannindi þat er sagt er frá Óláfi konungi Tryggvasyni.

**113.** . . . Hallfreðr vandræðaskáld hafði komit um sumarit austan af Gautlandi; hafði hann verit með Rögnvaldi jarli Úlfssyni, er þá var kominn til ríkis í Vestra-Gautlandi. Úlfr faðir Rögnvalds var bróðir Sigríðar ennar stór-

ráðu; váru þeir systkinasynir Óláfr konungr sœnski ok Rögnvaldr jarl. Segir Hallfreðr Óláfi konungi mart af jarli, sagði, at hann var hraustr höfðingi ok stjórnsamr, örr af penningum, drenglyndr ok vinhollr; sagði Hallfreðr þat ok með, at jarl vildi hallask til vináttu við Óláf konung, ok hafði þat talat, at hann vildi biðja Ingibjargar Tryggvadóttur. Á þeim vetri kómu austan af Gautlandi sendimenn Rögnvalds jarls, ok fundu Óláf konung norðr í Niðarósi; báru þar fram erindi jarls fyrir konung, öll slík sem Hallfreðr hafði áðr orði á komit, at jarl vildi vera fullkominn vin Óláfs konungs, ok þar með mælti jarl til mægða við konung, ok vildi fá Ingibjargar systur hans.

# Kvæði
eftir
**Hallfreð vandræðaskáld.**

---

## I.
## HÁKONARDRÁPA
(ort um 990).

(1) Askþollum stendr Ullar
austr at miklu trausti
rœkilundr enn ríki
randfárs, brumaðr hári.

(2) Grams rúni lætr glymja
gunnríkr, hinns hvöt líkar,
Högna hamri slegnar
heiftbráðr of sik váðir.

(3) Ráð lukusk, at sá, síðan,
snjallráðr konungs spjalli
átti eingadóttur
Ónars, viði gróna.

(4) Breiðleita gat brúði
Báleygs at sér teygða

stefnir stöðvar-hrafna
stála ríkismálum.

(5) Því hykk fleygjanda frakkna,
ferr jörð und menþverri,
ítra eina at láta
Auðs systur mjök trauðan.

(6) Sannyrðum spenr sverða
snarr þiggjandi viggjar
barrhaddaða byrjar
biðkván und sik Þriðja.

(7) Ok geirrótu götvar
gagls við strengjar hagli
hungreyðöndum hanga
hléðut, járni séðar.

(8) Ólítit brestr úti
unndýrs frömum runnum
hart á Hamðis skyrtum
hryngráp Egils vápna.

(9) Þaðan verða föt fyrða,
fregn ek görla þat, Sörla
rjóðask björt í blóði.
Benfúr méilskúrum.

## II.
## ÓLÁFSDRÁPA
(ort vetrinn 996—997).

(1) Tolf vas elds at aldri
ýsetrs hati vetra,
hraustr þás herskip glæsti
Hörða vinr ór Görðum;
hlóðu Hamðis klæðum
hjörva gnýs ok skýjum
hilmis menn með hjalmum
hlýrvigg, en mól stýri.

(2) Hilmir lét at Holmi
hjálmskóð roðin blóði —
hvat of dylði þess höldar? —
hörð ok austr í Görðum.

(3) Svá frák hitt, at háva
hörgbrjótr í stað mörgum
(oft kom hrafn at) heiftum
hlóð valköstu (blóði).

(4) Endr lét Iamta kindir
allvaldr í styr falla,
vanðisk hann, ok Vinða,
végrimmr, á þat snimma;
hættr vas Hörða dróttinn
hjördjarfr Gota fjörvi,

gollskerði frák gerðu
geirþey á Skáneyju.

(5) Böðserkjar hjó birki
barklaust í Danmarku
hleypimeiðr fyrir Heiða-
hlunnviggja -bý sunnan.

(6) Tíðhöggvit lét tyggi,
Tryggvasonr, fyr styggvan
Leiknar hest á lesti
ljótvaxinn hræ Saxa;
vinhróðigr gaf víða
vísi margra Frísa
blökku brúnt at drekka
blóð kveldriðu stóði.

(7) Rógs brá rekka lægir
ríkr Valkera líki,
herstefnir lét hröfnum
hold Flæmingja goldit.

(8) Gerðisk ungr við Englum
ofvægr konungr bægja;
naddskúrar réð nœrir
Norðimbra sá morði;
eyddi ulfa greddir
ógnblíðr Skotum víða,

gerði seims, með sverði,
sverðleik í Mön skerðir.

(9) Ydrógar lét œgir
eyverskan her deyja
(Týr vas tjörva dýrra
tírargjarn) ok Íra;
barði brezkrar jarðar
byggvendr, en hjó tyggi
(gráðr þvarr geira hríðar
gjóði) kumbrskar þjóðir.

## III.
## ERFIDRÁPA UM ÓLÁF TRYGGVASON
(ort 1001).

Stef:

(1) Norðr eru öll of orðin
auð lönd at gram dauðan,
allr glepsk friðr af falli
flugstyggs sonar Tryggva.

(2) Flugþverrir nam fyrri
frægr aldrigi vægja,
heldr lét hölða skyldir
hugrekki sér þekkja.

(3) Geta skal máls, þess's mæla
menn at vápna sennu
dolgafangs við drengi
dáðöflgan bör kváðu;
baða hertrygðar hyggja
hnekkir sína rekka
— þess lifa þjóðar sessa
þróttarorð — á flótta.

(4) Þar hykk víst til mjök mistu
(mörg kom drótt á flótta)
gram, þann's gunni framði
gengis þrœnzkra drengja;
nœfr vá einn við jöfra
allvaldr tváa snjalla,
— frægt es til slíks at segja
síðari, ok jarl enn þriðja.

(5) Heft vas lítt (á lofti
liðu örvar framm görva)
brodda flaug, áðr bauga
brjótendr skyti spjótum;
orð vas hitt, at harðast,
hvarkunnr, fyr lög sunnan,
mest, í malma gnaustan
minn dróttinn framm sótti.

(6) Sótti herr, þars hætti,
hundmargr drasil sunda,

en hjalmsprotum hilmir
harðfengr Dönum varði;
fellu þar með þolli
þeim skævaðar geima
(mein hlautk af því) mínir
(meir) hollvinir fleiri.

(7) Herskerðir klauf harðan
(hann gekk reiðr of skeiðar)
svarðar stofn með sverði
sunnr eldviðum gunnar;
kunni gramr at gunni,
(gunnþings é-arnmunnum
margr lá heggr of höggvinn)
holbarkar rá sarka.

(8) Varð of Vinða myrði
vígskýs (en þat lýsik)
ramr und randar himni
rymr (knáttu spjör glymja);
hirðir stóðsk með harðan
hnitvegg við fjölð seggja
víðis veltireyðar
varghollr þrimu marga.

(9) Upp sögðu lög (lagðisk
líf skjótt firum) hlífa,
gnóg til gumna feigðar,
gölkn (við randar bölku).

(10) Leitt hykk Leifa brautar
lognárungum váru
geirs við gumna stjóra
geigurþing at eiga,
þás fákhlaðendr frœknir
farligs at vin jarla
húfs með hamri þœfðar
hringskyrtur fram gingu.

(11) Sukku niðr af Naðri
(naddfár) í böð sárir
(baugs, gerðut við vægjask)
verkendr Heðins serkjar;
vanr mun Ormr, þót Ormi
alldýrr konungr stýri,
hvars skríðr með lið lýða,
lengi slíkra drengja.

(12) Eigi látask ýtar
enn, þeirs víðast nenna,
fremra mann of finna
folkreifum Áleifi.

(13) Firðisk vætr, sás varði
víð lönd, Breta stríðir
bleyði firðr við bráðan
bekkdóm Heðins rekka;
hann lét of sök sanna,

sverðjalmr óx þar, verða,
skilit frák, fyr skylja,
skóð mörg roðin blóði.

(14) Hverr vas hræddr við örvan,
hugdyggvan son Tryggva
(óðusk malmþings meiðar)
maðr und sólar jaðri.

(15) Myndi lung et langa
(láðsíks) und gram ríkum,
(blóð kom á þröm þíðan)
þjóð varliga hrjóða;
meðan ítrs vinir áttu
innan borðs (at morði
sú gerðisk vel) varða
(verðung) jöfurs sverðum.

(16) Harðgörvan lét hjörvi
Holms verða Týr sverða
vind á víðu sundi
vígþey Heðins meyjar;
áðr an Ormi næði
Eirekr eða hlut meira,
mörg óð bitr í blóði
benkleif fyr Áleifi.

(17) Ítrfermðum réð Ormi
orðsæll jöfurr norðan,

(snörp varð at þat sverða
snót) Eireki á móti,
en húfjöfnum hefnir
hlýrs þeim gota stýrði,
(áðr óx um gram góðan
gunnr), Hákonar sunnan.

(18) Gótt es görva at frétta
(gunnr óx fyr haf sunnan,
sverð bitu feigra fyrða
fjörrönn) at því mönnum,
hvern rakkligast rekka
randláðs viðir kváðu
(Surts ættar vinnk sléttan
sylg) Áleifi fylgja.

(19) Ógrœðir sá auðan
armgrjóst Trana fljóta
(hann rauð geir at gunni
glaðr) ok báða Naðra,
áðr hjaldrþorinn heldi
hugframr ór böð ramri
snotr af snœris-vitni
sunds Þórketill undan.

(20) Veitkat hitt, hvárt Heita
hungrdeyfi skalk leyfa
dynsæðinga dauðan

dýrbliks eða þó kvikvan,
alls sannliga segja
(sárr mun gramr at hváru,
hætt's til hans at frétta)
hvárttveggja mér seggir.

(21) Sagðr vas mér, né meira
munuma stríð of bíða,
lýðum firðr ok láði
landvörðr fyr sæ handan;
væri oss, þót ærir
elds þeim svikum beldi,
heila-líkn, ef, hauka
háklifs jöfurr lifði.

(22) Sá vas árr, of ævi,
oddbragðs, es þat sagði,
at lofða gramr lifði,
læstyggs sonar Tryggva;
vesa kveðr öld ór eli
Áleif kominn stála,
menn geta máli sönnu,
mjök's verr an svá, ferri.

(23) Mundut þess, es Þrœnda
þróttharðan gram sótti,
frák, með liði lýða
landherr, þar sköp verða:

at mundjökuls myndi
margdýrr koma ýrir
(geta þykkjat mér gotnar
glíkligs) ór styr slíkum.

(24) Enn segir auðar kenni
austr ór malma gnaustan
seggr frá sárum tyggja
sumr eða braut of kumnum;
nú's sannfregit sunnan
siklings ór styr miklum,
(kanka mart við manna)
morð (veifanar orði).

(25) Norðmanna hykk nenninn
(nú's þengill fram genginn;
dýrr hné dróttar stjóri)
dróttin und lok sóttan.
Grams dauði brá gleði
góðs ófárar þjóðar,
allr glepsk friðr af falli
flugstyggs sonar Tryggva.

(26) Illt vas þats ulfa sultar,
oft, þverri stóðk ferri
mest þars malmar brustu,
mein, þótt smátt sé und einum;
skiliðr em ek við skylja,

skalmöld hefr því valdit;
vætta virða dróttins
vil es mest ok dul flestum.

(27) Hefk, þanns hverjum jöfri
heiftfíknum varð ríkri
und niðbyrði Norðra
norðr, goðföður orðinn;
bíða munk þess, es breiðan
barðmána vann skarðan,
margaukanda mækis
móts aldrigi bótir.

(28) Fyrr mun heimr ok himnar,
hugreifum Áleifi,
(hann vas menskra manna
mest gótt) í tvau bresta,
áðr an, glíkr at góðu,
gœðingr myni fœðask.
Kœns hafi Kristr enn hreini
konungs önd ofar löndum.

# Tímatal.

| | | |
|---|---|---|
| Óttarr og Ávaldi koma til Íslands . | eftir | 960 |
| Fœddr Hallfreðr . . . . . . . . . | um | 967 |
| Utanför Hallfreðar in fyrsta . . . . | um | 987 |
| Hallfreðr í sjóförum . . . . . . . . | um 988— | 996 |
| Hallfreðr yrkir drápu um Hákon jarl | um | 990 |
| Hallfreðr kemr til Óláfs Tryggvasonar, lætr skírast og yrkir drápu um konung . . . . . . . . . . . . | | 996 |
| Fer til Danmerkr og Svíþjóðar . . . . . | | 997 |
| Fer út til Íslands . . . . . . . . . . . | | 1000 |
| Yrkir erfidrápu um Óláf konung . . . . | | 1001 |
| Mál Hallfreðar á alþingi og utanför . . . | | 1001 |
| Hallfreðr kemr aftr út til Íslands . . . . | | 1005 |
| Hallfreðr fer utan og deyr í hafi . | um | 1007 |

# Vísnaskýringar.

**1.** Þarf eigi skýringa.

**2. Hallfreðr:** Reiði allheiðins sannargs sökkvis margra troga[1] verðr mér svá nökkvi[2] œgileg fyr augum, sem ólítill gamall búrhundr stúri[3] úti fyr búri alls mest við för gesta; stœrik brag[4].

1. *sökkvir margra troga,* háðuleg mannkenning, um Grís. — 2. *svá nökkvi,* ámóta, viðlíka. — 3. *stúri,* ygli sig. — 4. eg yrki.

**3. Sami:** Ræðkat[1] rœkimeiðum randaliðs[2] at biðja eingadóttur Ávalda — ótta skaldi því[3]; síð mun byrr beiði- kvánar Surts[4] of rinna mér af kyrri Kolfinnu; svá geta menn til hennar.

1. *Rœðkat,* eg ræð eigi, eg ræð frá. — 2. *randaliðs* virðist eignarf. af *randalinnr,* spjót eða sverð; *rœkimeiðar randaliðs,* hermenn (mk.). — 3. menn ógna skáldinu (Hallfreði) með því. — 4. *beiðikván Surts,* tröllkona; *byrr* tröllkonu, hugr; síð mun hugr minn hverfa frá inni kyrrlátu Kolfinnu.

**4. Sami:** Fúss emk enn minnask við Kolfinnu, þótt álföll[1] drepi ossu stáli[2], — mjök skýtr Mörnar vakri[3] — þvít unnum nú áttgóðri,[4] nýtri tróðu Endils eldgrundar[5] nær betr an væri heitin mér[6].

1. *álföll,* straumföll, rastir. — 2. skelli á skipstafni vorum. — 3. *Mörn,* árheiti; *vakr,* hestr; *Mörnar vakr,* skip; skipinu fleygir áfram (í straumnum). — 4. ættgóðri. — 5. *Endils eld-grund, Endill,* sækonungr; *Endils grund,* hafið; *eldr* hafs, gull; gulls *tróða,* kona, hér: Kolfinna. — 6. því að eg ann inni ættgóðu, mik-

ilhæfu konu nærri því betr, en þótt hún væri orðin heitkona mín.

**5. Sami:** Fœrum festar órar; særoka ferr at knerri; svörð tekr heldr at herða[1]; hvar es Akkerisfrakki?

1. *svörðr,* svarðreip, festar skipsins og reiði. Nú tekr heldr að herða á strengjum vorum.

**6. Óláfr Tryggvason:** Ek fekk einn dreng til strengjar, þann er hnykkir hnakkmiða[1]; hér es Akkerisfrakki.

1. *hnakkmiði,* dufl, er fest er á streng við akkerið og miðar eða vísar til hvar það liggr.

**7. Hallfreðr:** Hlautk þann guðföður, es vas orðinn einna æztr manna und niðbyrði Norðra[1] norðr[2]; ek sanna þat.

1. *niðbyrðr Norðra,* byrðr niðja Norðra, dvergabyrði, himinn. — 2. á norðrvegum eða Norðrlöndum.

**8. Sami:** Veitk, at víðlendr konungr sendi vísu skreyti[1] nökðan[2] hjör núflaust[3] við nökkva Austra burar[4]; skrautlig hjölt verða fyr herði skölkvings[5]; gramr höfum framðan konungsnauti[6]; of þák kera skjalga[7].

1. skáldi, mér. — 2. án umgerðar eða skeiða. — 3. *núflaust,* líklega sama sem »hrukkulaust«, umsvifalaust, léttilega. »Núfa« er sagt, að til sé í nútíðarmáli á Vestfjörðum og merki nabba eða litla vörtu. Í nýnorsku þýðir »nuva« sauðr með stuttum eyrum. Í fornnorsku er hnúfa þjófkerling, er skorið var af eyrum og nefi til refsingar. — 4. *Austra burr,* dvergr; dvergs *nökkvi,* dvergafar, skáldskapr; *við* skáldskap, að bragarlaunum. — 5. *skölkvingr,* sverð. — 6. konungrinn hefir sœmt mig konunglegri gjöf. — 7. *kera skjalgi,* sverð.

**9. Sami:** Hitt vas fyrr, es gatk vel blóta sjalfan

geðskjótan harra Hliðskjalfar[1]; skift es á giftu gumna.

1. *Harri Hliðskjalfar,* Óðinn.

**10. Sami:** Öll ætt aldar hefr skipat ljóðum til hylli Óðins; man'k algilda iðju várra niðja. Legg ek fjón á frumver Friggjar þvít Kristi þjónum; en trauðr, þvít vald Viðris hugnaðisk skaldi vel.

Allar kynslóðir hafa skipað ljóðum sínum til þess að hlotnast hylli Óðins; man eg þá vegsamlegu iðju feðra vorra. (Nú) legg eg hatr á Óðin því að eg þjóna Kristi, en trauðr (nauðugr), því að vald Óðins hugnaðist mér vel.

**11. Sami:** Hölða reifnir[1], höfnum nafni hrafnblóts goða ór heiðnum dómi, þess es ól lóm við lof lýða[2].

1. konungr. — 2. Eg hafna nafni Óðins úr heiðnum sið, þess er menn lofuðu, þótt hann beitti þá brögðum.

**12. Sami:** Mér skyli Freyr gramr ok Freyja; læt'k fjörð[1] öðul[2] Njarðar; gröm[3] líknisk við Þór enn ramma; vilk kveðja Krist einn ok goð allrar ástar; erum leið reiði sonar[4], es á frægt vald foldar und feðr.

1. *fjörð,* firð. — 2. *öðul,* flt. af *aðal,* eign, hér: hof eða vé; eg firrist vé Njarðar. — 3. *gröm,* (hér) illar vættir. — 4. Krists.

**13. Sami:** Sá es siðr með Sygna ræsi, at goð 'ro[1] kviðjuð[2]; verðum at forðask flest fornhaldin sköp norna; allir ýtar[3] láta kyn Óðins fyr róða[4]; ek verð ok neyddr frá niðjum Njarðar at biðja Krist.

1. *'ro,* stytt fyrir ero, eru. — 2. *kviðja,* af nema, banna. — 3. menn. — 4. *láta fyr*(ir) *róða,* yfirgefa, kasta frá sér; *róði* þýðir e. t. v. sópr, vöndr (á þýzku: rute).

**14. Sami:** Eitt es sverð sverða, þats gerði mik sverðauðgan; nú mun verða sverðótt fyr sverða svip-

Njörðum[1]. Muna[2] verða vansverðat, jarðar-hljótr[3], at yrði umbgerð at því sverði; emk verðr þriggja sverða.

1. mannkenning. — 2. mun eigi. — 3. konungr.

**15. Sami:** Ólk hrafnvíns hyrjar njót[1] á hvítu féi[2] mínu, þars vildak aldri véla auðgildanda[3]. Vannk til góðs við gunnmás grenni[4], sem ek kunna, en hjörva friðskerðir fœrði fjörtál at mér[5].

1. *hrafnvín,* blóð, *hyrr,* eldr, blóðs eldr, sverð eða spjót, sverðs *njótr,* maðr. — 2. *hvítt fé,* hér: silfr. — 3. mannkenning. — 4. *gunnmár,* hrafn, hrafns *grennir,* hrafnseðjandi, maðr. — 5. bjó mér banaráð.

**16. Sami:** Svá hermila[1] hefk rekit harma minna, — Baldr sárlinns[2] hné í gný skjalda[3]; erum svipr at sveigi baugs[4], — at létk lofhnugginn[5] bana Auðgísls liggja dauðan sunnr[6] í dyn Gunnar[7]; svá of hefnda ek okkar.

1. greypilega. — 2. *linnr,* ormr; *sárlinnr,* sverð eða spjót, Baldr sverðs, mannkenning. — 3. *gnýr skjalda,* bardagi. — 4. Mér er sviftir að Þorgísli. — 5. *lofhnugginn,* lofi sviftr. — 6. suðr (í Svíþjóð). — 7. *dynr Gunnar,* bardagi.

**17. Sami:** Ek brá af reiði hundgeðjuðum stökkvi ölna skeiðs elda[1] undir; lagðak hendr at hundi; sá sendir Hlakkar éls skíða[2] stendr eigi síðan á vélum við þjóð[3]; rauðk bál Yggjar éla[4].

1. *ölunn,* fiskr; *ölna skeið,* sjór; *sjávar eldar,* gull; *gullsendir,* maðr. — 2. mannkenning. — 3. sitr eigi lengr á svikráðum við menn. — 4. *Yggr,* Óðinn; *bál Yggjar éla,* sverð.

**18. Sami:** Heitr of-remðar sveiti leggr af Grísi at lýsibrekku leggjar íss[1]; hon þolir kvöl hjá hánum; en dreypilig[2] dýnu Rán[3] drúpir hjá hánum sem alft á sundi; leyfik lund ljóssa vífa[4].

1. *leggr,* armleggr; *leggjar íss,* silfrarmhringr; *lýsibrekka leggjar íss,* fagrbúin kona (hér: Kolfinna). — 2. *dreypilig,* sem drúpir höfði af harmi, daprleg. — 3. kona. — 4. eg lofa skapsmuni innar björtu konu.

**19. Sami:** Fjarðar fúr-skerðandi[1] þrammar til hvílu, svá sem sílafullr fúlmár[2] svimmi á báru tröð, áðr an ófríðr orfa stríðir[3] þorir skríða und váðir; hann esa[4] hvílubráðr við hlaðs Gunni[5].

1. *fúrr,* eldr; *fjarðar fúrr,* gull; *gull-skerðandi,* maðr. — 2. fýll. — 3. *orfa stríðir,* óvegleg mannkenning. — 4. er eigi. — 5. *hlaðs Gunnr,* kona.

**20. Sami:** Enn hvíti[1] hjalmgrands Höðr[2] ok Strútr[3] enn gráni mun lítt skalmask fyr búr[4], hann mun án aura Eirar[5], þót ófríðr orfþægir[6] eigi víðan stöðul ok langa kví; hirðandi hjörvangs[7] nýtr hjarðar[8].

1. *hvítr,* hér í merking: huglaus. — 2. *hjalmgrands Höðr,* mannkenning, Gríss. — 3. hundr. — 4. þeir munu fara sér hœgt fyrir búrdyrnar, báðir »búrsnatar«. — 5. *aura Eir,* kona, hér: Kolfinna. — 6. *orfþægir,* niðrandi mannkenning, Gríss. — 7. *hjörvangr,* skjöldr; hirðandi skjaldar, mannkenning. — 8. hann á gnœgð búþenings.

**21. Sami:** Kolfinna læzk kenna fúlt af skaldi; kveðk enn of þenna hlut; kveða hvat[1] valda vitru vífi; en auðhnykkjanda[2] þykkir ganga dýrligr angi[3] af ungum svanna[4]; emk gjarn at greiða óð.

1. eitthvað. — 2. skáldinu. — 3. *angi,* ilmr. — 4. Kolfinnu.

**22. Sami:** Ek hirði lítt þótt verðak höggvinn í höndum svarra — varrlautar viggs lundr[1] hefr hætt til sprunda —, ef ek næða sofa meðal arma slœðu karms Sif[2]. Mákat of bindask ofrœkðar við ljósa láss lind[3].

1. *varrlautar viggs lundr,* mannkenning, hér: Hallfreðr sjálfr. — 2. *slœðu karms Sif,* kona, hér: Kolfinna. — 3. Eg fæ ekki bundizt ofrástar við ina björtu konu.

**23. Sami:** Veitkat hitt, hvat skal verða verglóðar tróðu[1] á munni — ást rinnumk til unnardags Ilmar[2], — ef fjölgegnir fagnendr jötuns sagna[3] fregna, hvat mik teitir; flók geitbelg af gyltar Grísi[4].

1. *ver,* haf; *verglóð,* gull; gulls *tróða,* kona. — 2. Ilmr, gyðja, unnar dagr, »verglóð«, gull; gulls Ilmr, kona. — 3. *jötuns sagnir,* munntal jötna, gull; gulls fagnendr, menn. — 4. eg »húðfletti« »grís« gyltarinnar, þ. e. Grís Sæmingsson.

**24. Sami:** Hirðinaumur sævar báls[1] koma allar sléttfjallaðar heim ór seljum; hams er góðr á fljóðum; nú selk af mína ábyrgð, þótt ölbekkjar Syn[2] ýfisk nekkvat; hverr seggr taki við sínum svarra.

1. *Hirðinaumur sævar báls,* konur. — 2. *Syn,* gyðja; *ölbekkjar Syn,* kona.

**25. Gríss Sæmingsson:** Námskorð[1], nú þykki mér nökkurr sveimr vesa orðinn, meðan ek vas heiman; lítk hví sumt mun sæta[2]. Hér hafa gestir görva þungliga slaug[3]; kona gengr út þrútin; sjáligr svarri þerrir augu.

1. kvenkenning. — 2. eg sé, hversu á sumu stendr. — 3. *slaug,* usli, óskundi.

**26. Hallfreðr:** Mjög tegask[1] dulrœkinn[2] seima sekkvir sœkja mik; verðk fyr hótum þegns; vér munum, snót, hvern dag dýrra; heldr mun hlautgeirs hœli-Baldri[3] meira fyr því, an sleikja sinn blóttrygil innan; erumk slíks ván.

1. leitast við. — 2. *dul,* heimsku mikillæti; *dul-*

*rækinn,* ofrembingr. — 3. *hlautgeirs hæli-Baldr,* mannkenning.

**27. Sami:** Þá mun minn hugr verða reyndr róghERÐöndum[1] at ráðnu malma sennu[2] — minnumk við Kolfinnu — ef svát örr uppsátrs viggjar boði[3] vísar mér at Grísi á eyri; hyggjum vel at láta þat[4].

1. mannkenning. — 2. *ráðin malma senna,* in ákveðna hólmganga. — 3. mannkenning. — 4. eg hygg gott til þess.

**28. Sami:** Mér þykkir, es ek þekki[1] Gunni þunnísunga[2], sem fley fljóti fleybrautir meðal tveggja eyja; en þás sék á saums Ságu[3] í kvinna flaumi[4], sem skrautbúin skeið skríði með gyldum reiða.

1. *þekki* merkir hér: sé. — 2. *ísungr,* höfuðdúkr; *Gunnr,* valkyrju-heiti; *þunn-ísunga Gunnr,* kona, hér Kolfinna. — 3. *saums Sága,* kona. — 4. *flaumr,* hér flokkr.

**29. Sami:** Illrar tíðar[1] hefk fengit auðs alldrengila — mik hefr gramr ok jarl of framðan gjöllu golli — ef skalk gjalda matvísum Grísi glapskuldir fyr minstan verka[2] ok hefk þeygi gjálfrleygs mörk[3].

1. Á óheilla stundu. — 2. *verki,* hér: bragr eða kviðlingar. — 3. *leygr,* logi, eldr; *gjalfrleygr,* sjávareldr, gull; mörk gulls, kona, hér: Kolfinna; »og fæ eg þó eigi konunnar«.

**30.** Vísan er úr erfidrápu Óláfs Tryggvasonar og kemr síðar.

**31. Hallfreðr:** Est bærr, hjaldr-örr[1], at heyra hróðr görvan um þik.

1. *hjaldr,* orusta; *hjaldr-örr,* gunnreifr, sighvatr. »Þér samir vel að heyra lof, er eg hefi orkt um þig«.

**32. Sami:** Ási hnauð mér við hjarta síðu; hreggblásin uðr[1] hefr mjök at öðru aflat báru skafli; marr

**skotar mínum knerri af nökkvi[2]; mjök emk vátr; úr-þvegin alda munat[3] eira[4] sínu skaldi.**

1. *uðr,* unnr, unn, alda, hér: hafið. — 2. særinn velkir knör minn af einhverri ástæðu; skáldið telr hafganginn sem feigðarboða sinn. — 3. *munat,* mun eigi. — 4. *eira,* hlífa.

**33. Sami:** Fjölerrin[1] hördúks Rindr[2] mun þerra sér of mjúka brá hvítri hendi, — fljóð gat fremðar-œði — ef morðveggs meiðar[3] skulu leggja mik dauðan út of borð. Vask áðr ungu flóði at sútum.

1. *Fjölerrin* bráð-sköruleg. — 2. *hördúks Rindr,* kona, Kolfinna. — 3. *morðveggr,* skjöldr; *morðveggs meiðar,* menn.

**34. Sami:** Ek munda nú andask senn sorglaust, ef vissak borgit sálu minni; ungr vask harðr í tungu; veitk, at of sýtumk vætki[1] — hverr verðr dauðr — nema hræðumk helvíti; goð valdi[2], hvar aldri skal slíta.

1. ekkert. — 2. ráði.

---

## Drápa um Hákon Hlaðajarl.

**1.** Enn ríki rœkilundr randfárs[1], brumaðr hári, stendr askþollum Ullar[2] at miklu trausti austr[3].

1. *rœkilundr randfárs,* hermaðr, Hákon jarl. — 2. *askþollr Ullar,* mannkenning. — 3. *austr,* í Noregi.

**2.** Gunnríkr grams rúni[1], hinns líkar hvöt, lætr heift-bráðr glymja of sik hamri slegnar Högna váðir[2].

1. *grams rúni,* sbr. jöfra spjalli, jarl. — 2. *hamri slegnar Högna váðir,* brynja.

**3.** Ráð lukusk síðan, at sá snjallráðr konungs spjalli átti eingadóttur Ónars[1], gróna viði.

1. *Ónarr,* faðir jarðar; eingadóttir (einkadóttir) Ónars, jörðin, hér Noregr.

4. Stefnir stöðvar hrafna[1] gat teygða at sér breiðleita brúði Báleygs[2] stála ríkismálum[3].

1. *stöð,* höfn eða vík; *hrafn,* hér hestheiti; *stefnir stöðvar hrafna,* flota foringi. — 2. *Báleygr,* Óðinn; brúðr Óðins, jörð, hér: land, Noregr. — 3. *stála ríkismál,* hernaðr.

5. Því hykk fleygjanda frakkna[1] mjök trauðan at láta ítra Auðs systur[2] eina; jörð ferr und menþverri[3].

1. *frakka* (frakkneskt) spjót; *fleygjandi frakkna,* hermaðr. Frakka er tilgáta dr. F. J. fyrir »frægjan«. — 2. *Auðr,* sonr Náttar, bróðir Jarðar; *Auðs systir,* jörð, hér: land, Noregr. — 3. *menþverrir,* mannkenning.

6. Snarr þiggjandi byrjar viggjar[1] spenr barrhaddaða[2] biðkván Þriðja und sik sannyrðum sverða[3].

1. *vigg,* hestr; *byrjar vigg,* skip. — 2. *barrhödduð,* skógi vaxin; svo til orða tekið sakir þess, að skáldið líkir landinu við konu, sbr. um Hákon jarl: »brumaðr hári«, þar sem hann er nefndr »randfárs rœkilundr«. — 3. sbr. »stála ríkismálum«.

7. Ok götvar geirrótu[1] jarni séðar[2] hléðut[3] hanga gagls hungreyðöndum[4] við strengjar hagli[5].

1. *geirróta,* orusta; *götvar,* kvk. flt., gerðar, hlífar, brynjur. — 2. *jarni séðar,* saumaðar, seymdar, járni. — 3. *hléðut,* hlífðu eigi, sögnin er hlýja (hléða, hléðr). — 4. *hanga gagl,* hrafn; *hungreyðendr* hrafns, hermenn. — 5. *strengjar hagl,* örvadrífa.

8. Ólítit hryngráp Egils vápna[1] brestr úti hart á Hamðis skyrtum[2] frömum unndýrs runnum[3].

1. *gráp,* hagl; *Egill,* bogvaldr, bróðir Völundar smiðs; *hryngráp Egils vápna,* dynjandi örvadrífa. — 2. *Hamðis skyrtur,* brynjur. — 3. mannkenning.

9. Þaðan verða björt föt Sörla[1] rjóðask í blóði fyrða[2]; fregn ek þat görla. Benfúr méilskúrum[3].

1. *föt Sörla,* sbr. »Hamðis skyrtur«, brynjur. — 2. *fyrðar,* menn. — 3. Þessi tvö orð virðast eiga við síðara helming vísunnar, sem er týndr. *Benfúrr,* sár-eldr, sverð; *méilskúrir,* bardagi.

---

## Óláfsdrápa.

1. Ýsetrs elds hati[1] vas tolf vetra at aldri, þás hraustr vinr Hörða[2] glæsti herskip ór Görðum[3]; hilmis menn hlóðu hlýrvigg Hamðis klæðum ok hjörva gnýs skýjum sem hjalmum[4], en stýri mól[5].

1. *Ýr,* bogi; *ýsetr,* hönd; *handar eldr,* gull; *gulls hati,* maðr, hér: Óláfr Tryggvason. — 2. *vinr Hörða,* Óláfr konungr. — 3. Garðaríki. — 4. menn konungs hlóðu skip herklæðum, skjöldum og hjálmum. — 5. stýrin hristust og gnötruðu í sævar-gjálfrinu.

2. Hilmir lét hörð hjalmskóð[1] roðin blóði at Holmi[2] ok í Görðum austr, — hvat of dylði höldar þess[3]?

1. *hjalmskóð,* sverð; *skóð* er skylt orðinu skaði. — 2. Við Borgundarhólm. — 3. hví skyldi menn draga dul á það.

3. Svá frák hitt, at hörgbrjótr[1] hlóð háva valköstu í mörgum stað heiftum; oft kom hrafn at blóði.

1. Óláfr konungr:

4. Endr lét végrimmr[1] allvaldr kindir[2] Jamta ok Vinða falla í styr; hann vanðisk snimma á þat; hjör-djarfr Hörða dróttinn vas hættr fjörvi Gota[3]; frák gollskerði gerðu geirþey[4] í Skáneyju.

1. *végrimmr,* grimmr fornum véum, sbr. *hörgbrjótr* í næstu vísu á undan. — 2. *kindir,* niðjar. — 3. Got-lendinga. — 4. *geirþeyr,* bardagi.

**5.** Hleypimeiðr hlunnviggja[1] hjó barklaust böð-serkjar birki[2] í Danmarku fyr sunnan Heiðabý.

1. flotaforingi, Óláfr konungr. — 2. böð-*serkr*, brynja; *böðserkjar birki*, hermenn. Þetta hráviði, sem Óláfr konungr hjó niðr í Danmörku, var *barklaust*, þar sem það var *böðserkjar* birki, þ. e.: menn.

**6.** Tyggi[1], Tryggva sonr, lét tíðhöggvit hræ Saxa á lesti[2] fyrir ljótvaxinn styggvan Leiknar hest[3]; vin-hróðigr vísi gaf blökku kveldriðu stóði[4] víða at drekka brúnt blóð margra Frísa.

1. *Tyggi* (víst skylt: *togi* í orðinu hertogi), kon-ungr. — 2. *á lesti*, ennfremr, loks (sbr. á ensku: at last). — 3. *Leikn*, tröllkona; *Leiknar hestr*, úlfr. — 4. *kveldriðu stóð*, úlfar.

**7.** Ríkr lægir rekka rógs[1] brá líki Valkera[2]; her-stefnir lét hröfnum goldit hold Flæmingja.

1. *róg*, ófriðr; *lægir rekka rógs*, friðstillir manna, sá er hegnir ósiðu og stillir til friðar (síns ríkis). — 2. *Valkerar*, íbúar í Walcheren í Hollandi; *brá líki Valkera*, feldi Valkera.

**8.** Ungr konungr gerðisk ofvægr bægja við Engl-um; sá naddskúrar nœrir[1] réð morði Norðimbra; ógn-blíðr[2] úlfa greddir[3] eyddi víða Skotum með sverði; seims skerðir gerði sverðleik í Mön.

1. *naddr*, broddr, *naddskúr*, örvadrífa; *nœrir*, efl-andi. — 2. *ógn*, orusta; *ógnblíðr*, gunnreifr. — 3. seðjandi.

**9.** Œgir ýdrógar[1] lét eyverskan[2] her ok Íra deyja; Týr dýrra tjörva[3] vas tírargjarn[4]; tyggi barði bygg-vendr brezkrar jarðar en hjó kumbrskar þjóðir; gjóði geira hríðar þvarr gráðr[5].

1. *ýdróg*, bogastrengr; *œgir*, skelfir; skelfir boga-strengs, hermaðr. — 2. *eyverskr*, úr Suðreyjum. —

3. *tjör,* kvk., spjót; *týr dýrra tjörva,* mannkenning. — 4. framagjarn. — 5. *gjóðr,* fuglsheiti; *geira hríð,* orusta; orustu-fugl, hrafn; *gráðr,* græðgi, hungr; hrafni þvarr hungr.

---

**Erfidrápa um Óláf Tryggvason.**

**1.** Öll Norðr-lönd eru orðin auð at[1] gram dauðan; allr friðr glepsk af falli flugstyggs[2] sonar Tryggva.

1. *at* (eldra apt eða aft), eftir. — 2. *flugstyggr,* »trauðr flugar«, flugskjarr, sá er eigi vill á flótta leggja.

**2.** Frægr flugþverrir[1] nam aldrigi vægja fyrri[2]; heldr lét hölða skyndir hugrekki þekkja sér.

1. sá er stöðvar flótta. — 2. að fyrra bragði.

**3.** Geta skal máls þess, es menn kváðu dáðöflgan dolga fangs bör[1] mæla við drengi at vápna sennu: — hnekkir hertryggðar[2] baða[3] sína rekka hyggja á flótta; þróttarorð þess þjóðar sessa[4] lifa.

1. *dolg,* dólg, fjandskapr, bardagi; *dolga fang,* brynja; brynju-*börr,* mannkenning. — 2. *hertryggð,* öryggi hers; *hnekkir hertrygðar,* sá er hnekkir öruggleik óvinahers, hér Óláfr Tryggvason. — 3. *baða,* bað eigi. — 4. *þjóðar sessi,* konungr.

**4.** Þar hykk gram, þanns framði gunni[1], víst mistu[2] til mjök gengis þrœnzkra drengja; mörg drótt kom á flótta; nœfr[3] allvaldr vá[4] einn við tváa snjalla jöfra ok jarl enn þriðja; frægt 's at segja til slíks síðar.

1. *gunnr,* orusta, hér er átt við Svoldrarorustu. — 2. *mistu* er nafnháttr þátíðar, hafa mist. — 3. *nœfr,* snœfr, hvatr. — 4. barðist.

**5.** Brodda flaug vas lítt heft — örvar liðu görva fram á lofti — áðr bauga brjótendr skyti spjótum;

hitt orð vas mest, at dróttinn minn, hvarkunnr[1], sótti harðast fram í malma gnaustan[2] fyr sunnan lög[3].

1. víðfrægr. — 2. *malma gnaustan,* orusta. — 3. fyrir sunnan haf, þ. e. við Svoldr.

**6.** Hundmargr[1] herr sótti drasil sunda[2], þars hætti[3], en harðfengr hilmir varði Dönum hjalmsprotum[4]; þar fellu fleiri hollvinir mínir með þeima[5] þolli skævaðar geima[6]; hlautk meir[7] mein at því.

1. *hundmargr,* fjölmargr. — 2. *drasill,* hestr; *drasill sunda,* skip, hér: Ormr inn langi. — 3. *þars hætti,* þar er (Svía-konungr) hætti (atsókninni). — 4. með sverðum. — 5. þessum. — 6. *geimi,* sær; *skævaðr,* hestr; *sævarhestr,* skip; skips *þollr,* mannkenning; hér: Óláfr konungr. — 7. *meir,* síðar.

**7.** Herskerðir[1] klauf harðan svarðar stofn[2] gunnar eldviðum[3] með sverði sunnr[4]; hann gekk reiðr of skeiðar; gramr kunni sarka[5] holbarkar rá[6] at gunni; margr gunnþings heggr[7] lá of höggvinn éarnmunnum[8].

1. hermaðr, konungrinn. — 2. *svarðar stofn,* höfuð. — 3. *gunnar eldviðir,* hermenn. — 4. *sunnr,* suðr, þ. e. suðr við Svoldr. — 5. *sarka,* rjóða, lita rauðu. — 6. *holbörkr,* börkr utan um holið, brynja; *brynju rá,* sverð. — 7. mannkenning. — 8. *éarnmunnum,* járnmunnum, sverðseggjum.

**8.** Ramr vígskýs rymr[1] varð und randar himni of Vinða myrði[2]; spjör[3] knáttu glymja, en þat lýsik; varghollr hirðir víðis veltireiðar[4] með harðan hnitvegg[5] stóðsk marga þrimu við fjöld seggja.

1. *vígský,* skjöldr; *vígskýs rymr,* skjaldabrak. — 2. *Vinða myrðir,* Óláfr konungr. — 3. spjót. — 4. *víðir,* sjór; *víðis veltireið,* ruggandi vagn hafsins, skip; skips *hirðir,* mannkenning. — 5. *hnitveggr,* skjöldr.

**9.** Hlífa gölkn[1] sögðu upp lög, gnóg til gumna feigðar; líf lagðisk firum[2] skjótt við randar bölku[3].

1. *galkn,* skrýmsl, grand; *hlífa gölkn,* sverð. — 2. mönnum. — 3. *rönd,* skjöldr; *randar balkar,* skjaldgarðr, skjaldborg.

**10.** Hykk lognárungum Leifa brautar[1] váru[2] leitt at eiga geirs geigurþing[3] við gumna stjóra, þás frœknir fólkhlaðendr farligs húfs[4] gingu fram at jarla vin með hringskyrtur[5], hamri þœfðar.

1. *Leifi,* sækonungr; *Leifa braut,* sjór; sjávar *log,* gull; gulls-*nárungr,* mannkenning. — 2. *váru* er nafnháttr þátíðar. — 3. *geirs geigurþing,* orusta. — 4. *húfr,* 3. og 4. umfar skipssúðar frá kili, oft haft sem *pars pro toto* um skipssúð eða skip; *farligr,* sá er fer vel, eða fagrligr; *fákr farligs húfs,* skip; *hlaðendr* skips, menn. — 5. hringabrynjur.

**11.** Verkendr Heðins serkjar[1] sukku sárir í böð[2] niðr af Naðri[3]; gerðut vægjask við naddbaugs fár[4]; vanr[5] mun Ormr lengi slíkra drengja, hvars skríðr með lið lýða, þótt alldýrr konungr stýri Ormi.

1. *Heðins serkr,* brynja; *verkendr* brynju, smiðir brynju, menn. — 2. orusta. — 3. Ormr inn langi. — 4. þeir hlífðu sér ekki í orustunni. — 5. *vanr mun Ormr slíkra drengja,* slíka drengi mun vanta á Orm.

**12.** Ýtar, þeir er víðast nenna[1], látask eigi of finna enn mann fremra folkreifum[2] Áleifi.

1. fara. — 2. *folk,* orusta, *folkreifr,* gunnreifr.

**13.** Bleyði firðr Breta stríðir, sás varði víð lönd, firðisk vætr[1] við bráðan bekkdóm Heðins rekka[2]; hann lét mörg skóð[3] verða roðin blóði of sanna sök; sverðjalmr[4] óx þar fyr skylja[5]; ek frá skilit[6].

1. lítt, ekki. — 2. *Heðins rekkar,* Hjaðningar; *bekkdómr* Hjaðninga; orusta. — 3. sverð. — 4. vopna-

brak. — 5. *skyli,* konungr. — 6. Eg frétti greinilega, skilmerkilega.

**14.** Hverr maðr und sólar jaðri vas hræddr við örvan hugdyggvan son Tryggva; malmþings meiðar[1] óðusk[2].

1. *malmþings meiðar,* bardagamenn. — 2. *óask,* óttast, hræðast.

**15.** Þjóð mundi varliga hrjóða et langa lung[1] und ríkum gram — blóð kom á þíðan þröm láðsíks[2] — meðan vinir ítrs jöfurs áttu varða sverðum innanborð; sú verðung[3] gerðisk vel at morði.

1. skip, hér átt við Orm inn langa. — 2. *síkr,* fisktegund; *láðsíkr,* sbr. dalfiskr, ormr, þ. e. Ormr inn langi. — 3. hirð.

**16.** Týr Heðins meyjar[1] lét sverða vind, vígþey[2], verða harðgervan hjörvi[3] á víðu Holms sundi; mörg bitr benkneif[4] óð í blóði fyr Áleifi áðr an Eirekr næði Ormi eða meira hlut.

1. *Heðins mær,* Hildr, valkyrja, orusta; *Týr* orustu, hermaðr, hér: Óláfr konungr. — 2. *vígþeyr,* bardagi. — 3. með hjörvi. — 4. *benkneif,* eggvopn.

**17.** Orðsæll jöfurr réð norðan ítrfermðum Ormi á móti Eireki, — snörp sverða snót[1] varð at[2] þat, — en hefnir Hákonar[3] stýrði sunnan þeim húfjöfnum hlýrs gota[4]; áðr óx gunnr[5] of góðan gram.

1. *sverða snót,* orusta. — 2. eftir. — 3. *hefnir Hákonar,* Eiríkr jarl Hákonarson. — 4. *goti,* hestr; *hlýr,* kinnungr; *hlýrs goti,* skip, Ormr inn langi. — 5. orusta.

**18.** Gott es mönnum at frétta gerva at því — gunnr óx fyr sunnan haf; sverð bitu fjörrönn[1] feigra fyrða, — hvern rekka randláðs viðir[2] kváðu rakkligast fylgja Áleifi; vinn'k sléttan sylg Surts ættar[3].

6

1. *fjörrann,* brjóst. — 2. *randláð,* skjöldr; *randláðs viðir,* mannkenning. — 3. *Surts ætt,* jötnar; *sylgr,* drykkr; drykkr jötna, Suptunga mjöðr, skáldskapr; eg yrki slétt.

**19.** Ógrœðir armgrjóts[1] sá Trana fljóta auðan ok báða Naðra[2] — hann rauð glaðr geir at gunni — áðr hjaldrþorinn[3], snotr[4] Þórketill heldi hugframr undan af snœris-vitni[5] ór ramri böð[6].

1. *armgrjót,* gull eða silfr; *ógrœðir,* eyðir; eyðir gulls, mannkenning. — 2. báða Orma. — 3. vígdjarfr. — 4. vitr. — 5. *vitnir,* úlfr; *snœris-vitnir,* skip. — 6. *böð,* orusta.

**20.** Veitkat[1] hitt, hvárt skalk leyfa[2] Heita dýrbliks dynsæðinga hungrdeyfi[3] dauðan eða þó kvikvan, alls[4] seggir segja mér hvárttveggja sannliga; at hváru[5] mun gramr sárr; hætt's at frétta til hans.

1. Eg veit eigi. — 2. lofa. — 3. *Heiti,* sækonungr; *Heita dýr,* skip; *blik* skips, skjöldr; skjalda *dynr,* orusta; *sæðingr,* már; *orustu már,* hrafn; *hrafns hungrdeyfir,* hermaðr, Óláfr konungr. — 4. með því að, þar sem. — 5. hvort sem er.

**21.** Landvörðr[1] var sagðr mér firðr lýðum ok láði fyr handan sæ; né munuma[2] of bíða meira stríð; oss væri heilalíkn[3] ef jöfurr lifði, þótt ærir hauks háklifs elds[4] beldi þeim svikum[5].

1. Óláfr konungr. — 2. munum eigi. — 3. full meina bót. — 4. *hauks háklif,* hönd; *handar eldr,* gull; *ærir* (flt. af *árr) gulls,* menn. — 5. hefði þau svik í frammi, að ráða hann lifanda af löndum.

**22.** Sá oddbraks árr[1] vas, es sagði þat of ævi læstyggs[2] sonar Tryggva, at lofða[3] gramr lifði; öld kveðr Áleif vesa kominn ór stála éli; es verr an svá; menn geta mjök ferri[4] sönnu máli.

1. *oddbrak,* orrusta; *oddbraks árr,* mannkenning. — 2. *læ,* svik; *læstyggr,* lætrauðr, ósvikall. — 3. *lofðar,* menn. — 4. fjarri.

**23.** Frák sköp mundut[1] verða þess, at margdýrr rýrir mundjökuls[2] myndi koma ór slíkum styr, þar es landherr sótti þróttharðan gram Þrœnda með liði lýða; þykkjat mér[3] gotnar[4] geta glíkligs.

1. mundu eigi. — 2. *mund-jökull,* silfr; *silfrrýrir,* mannkenning. — 3. eigi þyki mér. — 4. menn.

**24.** Enn segir sumr seggr auðar kenni[1] frá sárum tyggja eða of kumnum braut ór malma gnaustan austr[2]; nú's sannfregið sunnan morð siklings[3] ór miklum styr; kanka mart við veifanarorði[4] manna.

1. *auðar kennir,* mannkenning, hér átt við Hallfreð sjáífan. — 2. austr, sbr. »sunnr«, suðr, þ. e. við Svoldr. — 3. konungs. — 4. *veifanarorð,* ómerkr orðasveimr, staðlausu stafir. — Eg gef eigi gaum hviksögum manna.

**25.** Hykk nenninn[1] dróttin Norðmanna sóttan und lok[2]; nú es þengill[3] genginn fram[4]; dýrr dróttar stjóri hné. Dauði góðs grams brá gœði ófárar þjóðar; allr friðr glepsk af falli flugstyggs sonar Tryggva.

1. ötulan, harðfengan. — 2. liðinn undir lok. — 3. konungr. — 4. *genginn fram,* framliðinn; *fram* er hér í merkingunni *frá,* eins og í gotnesku.

**26.** Illt mein vas þats stóðk ferri[1] þverri ulfa sultar[2], þars malmar brustu mest, þótt oft sé smátt und einum; ek em skiliðr við skylja[3]; því hefir skalmöld valdit; flestum es mest vil ok dul vætta virða dróttins[4].

1. fjarri. — 2. *þverrir ulfa sultar,* hermaðr, hér: Óláfr konungr. — 3. konung. — 4. því veldr mest

ósk og blindni margra manna, að þeir vænta enn Óláfs konungs.

**27.** Hefk orðinn[1] guðföður, þanns varð ríkri hverjum heiftfíknum jöfri norðr und niðbyrði Norðra[2]; munk aldrigi bíða bótir þess margaukanda mækis móts[3], es vann breiðan barðmána[4] skarðan.

1. *orðinn,* af *verða* í merking: missa; *hefk orðinn,* eg hefi mistan. — 2. *Norðri,* einn þeirra dverga, er ber himininn; *niðr,* ættingi; *niðbyrðr Norðra,* byrði dverga-ættar, himininn. — 3. *mækir,* sverð; *mækis mót,* orusta. — 4. skjöld.

**28.** Fyrr mun heimr ok himnar bresta í tvau, áðr an fœðask myni gœðingr glíkr hugreifum Áleifi at góðu; hann vas mest gótt menskra manna. Kristr enn hreini hafi önd kœns konungs ofar löndum.



# Nafnaskrá.